# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, SEPTEMBER 1898. Nr. 7.

## Líknarskyldan.

Eftir stud. theol. Runólf Marteinsson.
(Flutt á kirkjuþingi síðasta.)

---

„Eg gef yður nýtt boðorð, að þér elskið hver annan; eins og eg elskaði yður, að þér einnig elskið hver annan. Af því munu allir sjá, að þér eruð mínir lærisveinar, ef þér elskizt innbyrðis.“ þetta eru orð Jesú Krists til lærisveina hans skömmu áðr en hann gekk út í pínuna. Ef einhver segir, að sá kærleikr, sem hér er talað um, sé ekki nógu víðtækr, nái ekki nema til kristinna manna innbyrðis, þá getum vér bent á orð Jesú, þar sem hann segir: „Elska náunga þinn sem sjálfan þig.“ þetta telr hann líkt hinu œðsta boðorði, um elskuna til guðs, og þessi tvö hafa í sér kjarna alls lögmálsins og spámannanna. Hér er talað ekki að eins um hinn kristna náunga vorn, heldr um manninn almennt. Kristr fer þó enn lengra, er hann segir: „Eg býð, að þér elskið *óvini* yðar, blessið þá, sem yðr bölva, gjörið gott þeim, sem hata yðr, og biðjið fyrir þeim, sem rógbera yðr og ofsœkja“ (Matt. 5, 44).

*Kærleikrinn* á þess vegna að einkenna alla kristna menn; og víst er það, að enginn getr sannkristinn kallazt, sem ekki hefir kærleikann í sér varanda; og þessi kærleikr á, samkvæmt orðum Krists, að vera bæði heitr og víðtækr.

þessi kærleikr er samt ekki *undirstaða* vors trúarlífs, heldr *ávöxtr* þess. „Ávöxtr andans er kærleiki", segir postulinn. Trúin er grundvöllr þeirrar andlegu byggingar, sem maðr reisir með lífi sínu. Hún samtengir hjarta mannsins við guð almáttugan, en „guð er kærleikrinn". Um leið og vér þess vegna fáum guð í hjartað veitist oss kærleikrinn. Vér fáum kraft, sem heiðnir og vantrúaðir menn ekki hafa. Kærleikrinn er hinn dýrðlegi ávöxtr vorrar kristnu trúar. þess vegna talar Jesús um kærleikann sem hið nýja boðorð og sem einkenni á sínum lærisveinum.

Jesús Kristr hefir líka sjálfr sýnt heiminum, hvað kærleikr er, með lífi sínu meðal mannanna og dauða á krossinum. því „meiri elsku hefir enginn en þá, að hann láti líf sitt fyrir vini sína." Allar hans gjörðir renna saman í eina mynd, hina áhrifamestu mynd af kærleikanum, sem mennirnir geta virt fyrir sér. það er hin sýnilega og áþreifanlega hlið hins kristilega kærleika, eins og hann kemr fram í líknarstarfsemi kirkjunnar, sem nú liggr fyrir oss. Til þess að binda hugsanir vorar við eitthvað ákveðið skulum vér framsetja þrjár spurningar og að einhverju leyti reyna að svara þeim.

## I.

Hvað hefir kirkjan á liðinni tíð gjört til að sýna kærleik sinn í verkinu?

Manneðlið heimtar ætíð hið sýnilega og áþreifanlega. þess vegna bjúggu menn sér til guði, sem þeir gæti séð og þreifað á. Af þeirri ástœðu veifa menn reykelsi, búa til líkneski og dýrka helga dóma í kaþólsku kirkjunni. Af sömu ástœðu heimtar reformeraða kirkjan, að hver einasti maðr sýni trú sína af einhverjum tilteknum, ákveðnum verkum, t. d. að forðast vínnautn, tóbaksbrúkun og ósœmilegt orðbragð. Vegna þess líka eru Íslendingar stöðugt að staðhœfa, að siðferðið eitt sé vert að taka til greina, en að trúin sé einskisverð. þetta sama manneðli kemr einnig fram í því, að vilja aldrei aðhyllast neina nýja andlega stefnu fyrr en hún er búin að sanna rétt sinn til að lifa með sjáanlegum áhrifum. Kristindómrinn er háðr sama lögmálinu. Hans áhangendr verða stöðugt að vera reiðubúnir að sýna trú sína af verkunum.

Hinir fyrstu kristnu menn sýndu svo vel trú sína af verkunum, að heiðingjar dáðust að og sögðu: „Sjá, hvernig hinir kristnu elska hver annan!“ það hefir verið sagt af manni, sem þekkir vel til þessara mála, að kristindómrinn hafi í fyrstu sigrað heiðindóminn eins mikið með því, sem hann *gjörði*, eins og með því, sem hann *sagði*.“

Undir eins og kristinn söfnuðr var myndaðr í Jerúsalem var unnið að því, að veita fátœkum, sjúkum og sorgmœddum alla þá aðstoð, hjúkrun og huggun, sem frekast var unnt. þegar söfnuðrinn stœkkaði, voru sérstakir menn, hinir sjö djáknar, kjörnir til að sinna líknarstarfseminni sérstaklega. Konur eins og Tabíta, Lydía, Priskilla og Febe voru starfandi í sömu átt. Postulinn Páll var stöðugt líknandi um leið og hann var kennandi. Í bréfum sínum hvatti hann mjög til kærleiksríks lífernis, og sjálfr sýndi hann í verkinu, hve hlynntr hann var þessari starfsemi, t. d. með þeirri innilegu umhyggju, sem hann bar fyrir hinum fátœka söfnuði í Jerúsalem. Oftar en einu sinni fœrði hann þeim stórgjafir, sem hann hafði safnað í söfnuðum þeim, er hann myndaði á kristniboðsferðum sínum.

það voru samt fleiri en leiðtogarnir, sem sinntu líknarstarfseminni á þessu tímabili. Kristnir menn almennt álitu það skyldu sína, að veita brœðrunum alla hjástoð, sem unnt var. Hús þeirra og hjörtu stóðu stöðugt opin fyrir þeim, sem bágt áttu.

þeir, sem á ofsóknartímum sátu í fangelsum, nutu allrar þeirrar umönnunar, sem mögulegt var að veita. Með þræla var sérstaklega vel farið, og í söfnuðinum stóðu þeir jafnir húsbœndum sínum. þegar stundir liðu fram, varð meir og meir af því, að söfnuðirnir hefði sérstaka embættismenn til þess að hafa umsjón yfir líknarstarfseminni. Voru það aðallega djáknarnir, bæði kvenfólk og karlmenn, sem inntu slíkar skyldur af hendi.

Eftir að kristindómrinn hafði verið lögleiddr í hinu rómverska ríki á dögum Konstantíns fóru meir og meir að rísa upp margvíslegar líknarstofnanir, sérstaklega þó sjúkrahús. Kirkjufaðirinn Basíl mikli kom á fót ákaflega mikilli líknarstofnan í bœnum Sesarea, og varði hann öllum sínum auði í þarfir hinna nauðstöddu. Krysostomus (Jóhannes gullmunnr) stofnaði

sjúkrahús í Konstantínópel og fœddi um tíma meir en 7,000 manns á hverjum degi.

þegar kemr fram á miðaldirnar, sjáum vér, að hér um bil öll líknarstarfsemin er í höndum munka og nunna. Djáknarnir eru horfnir og söfnuðirnir sjálfir hættir að sinna slíkum málum, og einstaklingarnir nærri hættir að gjöra gott í prívatlífinu. Allt er í höndum kirkjunnar. Allt fé, sem menn hafa gefið fyrir sálu sinni eða af öðrum orsökum til líknarþarfa, gengr í gegnum klerka og munka. Starfsemin var þá búin að missa þann lifanda kraft kærleikans, er hún í fyrstu hafði. þó leystu munkarnir og nunnurnar af hendi mikið verk í þá átt að hjúkra hinum sjúku, veita hvíld hinum þreyttu, hýsa vegfarandann, hugga hinn hrellda, og leiðrétta hinn villuráfanda. þann dag í dag hefir kaþólska kirkjan mikið orð á sér fyrir sína framúrskarandi líknarstarfsemi. Prótestantar með sína betri trú og fullkomnari þekking mega marg-oft skammast sín, þegar þeir bera sig saman við hina kaþólsku brœðr sína. þó er ekki hœgt annað að segja en að prótestanta-kirkjan hafi gjört mikið í þessa átt. Í gegnum alla hennar sögu er því kirkjan líknandi, ekki síðr en kennandi.

## II.

Hvað gjörir kirkjan á yfirstandandi tíð til að sýna kærleik sinn í verkinu?

Jesús Kristr er henni hið fegrsta dœmi í þessu sem öðru. Hann hugsaði ekki einungis um að flytja hungruðum sálum fagnaðarboðskapinn, heldr hugsaði hann einnig um að gefa sýn hinum blindu, láta hina höltu ganga, hina líkþráu hreinsast, hina daufu heyra, og hina dauðu upprísa. Hann gekk í kring og læknaði bæði sálir og líkami manna. Í öllu falli að einhverju leyti reynir kirkjan að feta í fótspor frelsarans. það er eins með líknarstarfsemi kirkjunnar og samskonar starf Jesú Krists, að hún er svo oft samblandin prédikan orðsins, að hún verðr ekki þar frá skilin. Eg hefi sérstaklega fyrir augum mér kirkjuna á þýzkalandi, en þó á flest af því, sem eg segi, heima um kirkjuna víðsvegar um heiminn.

Hvað gjörir þá kirkjan? Ekki að eins ver hún stórfé til að stofna mikil félög í þeim tilgangi, að flytja fátœkum

brœðrum víðsvegar út um heiminn guðs orð bæði í rœðu og riti, senda þeim prédikara, biblíur og aðrar bœkr, og byggja fyrir þá kirkjur. Ekki að eins sendir hún prédikara sína og trúboða inn á heimkynni glœpanna í stórborgunum til að flytja fagnaðarerindið hinum aumustu allra manna, heldr veitir hún þeim einnig alla þá siðferðislegu og líkamlegu umönnun, sem möguleg er. Ræflana, glœpamennina gjörspillta, sem veltast í saur og svívirðing, hinni verstu í þessum heimi, tekr hún í faðm sinn; og um leið og hún réttir að þeim bikar lífsins vatns tekr hún af þeim larfana, býðr þeim baðkerið, gefr þeim öll möguleg tœkifœri til hreinlætis og þæginda lífsins, og veitir þeim um leið mögulegleika til að lifa sómasamlegu lífi. Eftir dœmi Jesú Krists tekr hún börnin sér í fang, munaðarlausu, bláfátœku, veiku, óstýrilátu og vondu börnin, og stofnar handa þeim allskonar heimili til þess að hjúkra þeim, uppala, lækna og bœta þau. Á þýzkalandi eru t. d. um 400 slíkar barnastofnanir til. Hún stofnar líka mikinn fjölda af heimilum handa öldruðum mönnum, ólæknandi, mállausum, blindum, niðrfallssjúkum, og jafnvel handa fábjánunum. Hún gjörir tilraunir til að leita upp unga fólkið, sem kemr einatt með saklaus hjörtu, en litla þekking, utan af landsbygðinni inn í stórborgirnar, og reynir hún að vernda það frá tálsnörum bœjarfreistinganna, stofnar þægileg heimili handa því, fœðir það stundum þar fyrir ekki neitt, lætr því í té kristileg atlot, leiðbeinir því af fremsta megni, útvegar því atvinnu og kennir því ýmsan iðnað. Á tímum drepsótta og styrjalda er kirkjan ekki heldr aðgjörðalaus. Þá sendir hún marga af sínum beztu sonum til að ganga þar sem fáir aðrir þora að stíga fœti, og margar af sínum beztu dœtrum til að binda um sár hinna særðu hermanna og veita þeim aðra umönnun og líkn. Enska konan Florence Nightingale er fræg fyrir slíka starfsemi, sérstaklega í Krím-stríðinu (1854).

Kirkjan lætr samt hér ekki staðar numið. Eftir dœmi frelsarans dregr hún að sér „tollheimtumenn og bersynduga“. Hennar þjónar fara inn í fangelsin og flytja hinu brjóstumkennanlega fólki guðs orð og guðs líknanda kærleik, og eru það að öllu leyti þýðingarmiklar umbœtr á lífi fanganna, sem kristindómrinn hefur áorkað. Theodor Fliedner á Þýzkalandi og Elizabeth Fry á Englandi eru sérstaklega nafnkennd fyrir slíka

starfsemi. Kirkjan reynir líka að frelsa heiminn frá eyðilegging ofdrykkjunnar. Konur, sem búnar eru að missa sakleysi sitt og fallnar eru í hyldjúp svívirðingarinnar, reynir kirkjan einnig til að þrífa úr þrælahaldi djöfulsins og leiða aftr á veg gæfu og blessunar.

Fyrir utan þetta allt er hið stórkostlega starf, sem kirkjan vinnr til að hjálpa sjúklingum og hinum fátœku. það er mönnum talsvert kunnara en hitt, og segjum vér því ekki meira um það að sinni. En það væri, ef til vill, ekki úr vegi áðr en vér skiljumst við þessa hlið málefnisins að minnast með fám orðum á starf tveggja manna, sem voru verkfœri í guðs hendi til að leiða mikla líknandi blessan yfir mannkynið.

Annar þeirra er Theodor Fleidner, fœddr árið 1800, prestr í fátœkum lúterskum söfnuði í smábœ einum, Kaiserswerth, við ána Rín, á vestanverðu þýzkalandi. Bœrinn var aðallega kaþólskr, og átti Fleidner örðugt uppdráttar. Samt starfaði hann. Fyrir utan prestsverk sín gaf hann sig mjög að líknarstarfi meðal glœpamannanna í fangelsinu þar í bœnum og reyndar víðar um þýzkaland. Árið 1833 kom til hans kvenmaðr, sem þá hafði fengið lausn úr fangelsi. Hún hafði hvergi höfði sínu að að halla og bað Fliedner að veita sér liðsinni. Hann hafði ekkert húsaskjól fyrir hana nema svo lítinn sumarkofa úti í garðinum (12x12 fet). þangað var hún boðin velkomin. Brátt komu fleiri, sem líkt var ástatt fyrir. Fleidner varð mjög gagntekinn af löngun til að hjálpa þessu fólki og yfir höfuð hinum líðanda mannheimi. Hann langaði sárlega til þess að „lina þreyttum þrautabönd, og þjáðum kross að létta". Í fyrstu kristni hafði mikill fjöldi kvenna helgað guði líf sitt til þess að lina neyðina og minnka kvalirnar meðal brœðranna. Hví skyldi kvenfólk ekki vera eins hœfilegt til þess starfa nú eins og fyrr? Með það fyrir augunum endrstofnaði Fleidner kvendjáknaembættið árið 1836. Kvendjáknar hinnar fyrstu kristni voru hér til fyrirmyndar að svo miklu leyti,sem ástœður nútímans leyfðu. þar ástœður kröfðust þess sérstaklega, að konur væri vel undirbúnar undir þennan starfa. Stofnan Fleidners í Keiserswerth varð því bæði að vera skóli og aðalheimili kvendjáknanna, sem henni tilheyrðu. Fleidner er nú kominn til sinnar síðustu hvíldar, en verkið hans lifir og blómgast.

Stofnanin í Kaiserswerth á nú margar og stórar byggingar, kirkjur, sjúkrahús, skóla og heimkynni kvendjáknanna sjálfra. Þar eru þær búnar undir lífsstarfið; þar er heimili þeirra í ellinni, og þar starfa margar þeirra; en svo eru margar sendar víðsvegar um heim til að kenna, aðstoða sjúka, lina kvalir fátœktarinnar og minnka óþverrann víðsvegar í söfnuðunum, og vinna að líknarstarfsemi yfir höfuð.

Um 70 stofnanir hafa komizt á fót víðsvegar um lútersk lönd með Kaiserswerth-stofnanina til fyrirmyndar. Í sambandi við þær stofnanir eru nú um 10,000 systr á 3,700 vinnustöðvum. Einar sjö slíkar lúterskar stofnanir eru komnar á fót í Bandaríkjunum. Á einni þeirra, í Milwaukee, Wisconsin, hefir íslenzkr kvenmaðr verið tvö hin síðastliðnu ár. Fyrir utan þetta er mikill fjöldi af djáknum meðal Meþodista og annarra prótestanta. Mikill er árangrinn af starfi Fleidners.

Hinn maðrinn er Jóhann Wichern, og var hann þjóðverji eins og Fleidner og uppi á nokkurn veginn sama tíma. Aðalstarfsvið hans var Hamborg og Berlín. Á ungum aldri stofnaði hann, ásamt nokkrum kristilega sinnuðum félögum sínum, sunnudagsskóla fyrir strákaskrílinn í hinum fyrr nefnda bœ. Hann hafði farið mikið um borgina og kynnt sér nákvæmlega þann hluta hennar, þar sem spillingin var mest. Hann komst sérstaklega við af því sorglega ástandi, sem átti sér stað meðal drengjanna og ungu piltanna. Pláss sunnudagsskólans var brátt allt upp tekið, enda fannst Wichern, að sunnudagsskóli undir þessum kringumstœðum ekki fullnœgja öllum þörfunum. Það þurfti *heimili* fyrir þessa ræfla, sem voru að veltast um göturnar, og það auðnaðist honum að stofna áðr en langt leið. Til þessa verks hlotnaðist honum að gjöf landsvæði dálítið rétt fyrir utan Hamborg. Húsið á því hafði frá ómuna tíð verið nefnt „Das Rauhe Haus“ (óvandaða húsið), og það nafn festist við drengjaheimilið, sem Wichern kom á fót þar. Mikill fjöldi af gjörspilltum drengjum safnaðist þar inn, er stundir liðu fram, og hefir stofnanin leyst af hendi mikið verk með því að gjöra úr þeim kristna og uppbyggilega menn.

Hugmyndin, sem lá til grundvallar fyrir fyrirkomulaginu á þessari stofnan, var sú, að gjöra lífið drengjanna þarna sem líkast fyrirmynd heimilislífs að unnt væri. Í þeim tilgangi

var drengjunum skift niðr í smáflokka, og hafði hver flokkr sitt litla heimili út af fyrir sig, en því var stýrt af heimilisföður og móður. Wichern sjálfr var fyrsti heimilisfaðirinn og móðir hans fyrsta heimilismóðirin. Þegar drengirnir fjölguðu, varð líka að fjölga þeim, sem stýrðu. Til þess starfs voru valdir menn, sem höfðu sérstaka hœfilegleika til þess ásamt sérstökum undirbúningi. Voru það oft kvæntir menn, sem höfðu konur sínar sér til aðstoðar. Umfram allt var reynt að sýna drengjunum eins mikinn föðurlegan og móðurlegan kærleika eins og unnt var. Fyrirkomulagið er hið sama enn.

Iðjuleysi er í þessari stofnan álitið eitt hið skaðlegasta fyrir unglingana; er þess því gætt, að þeir hafi ætíð eitthvað að gjöra. Meðal annars eru þeim kenndar ýmsar handiðnir, og hafa þeir meðal annars í gangi mikilhœfa prentstofnan.

„Rauhe Hause“ hefir verið til fyrirmyndar mörgum samskonar stofnunum, er síðan hafa komizt á fót á Þýzkalandi og víðar.

Þetta og margt fleira var verk Jóhanns Wicherns, og það ásamt því, sem á undan er sagt í þessum kafla, er dálítið sýnishorn af því, hvernig kirkjan fer að sýna kærleik sinn í verkinu á yfirstandandi tíð.

III.

Hvað getr svo vort eigið kirkjufélag gjört í þessu tilliti?

Vér getum ekki að svo stöddu stofnað sjúkrahús eða munaðarleysingjaheimili. En fyrst og fremst getum vér styrkt slíkar stofnanir, er vér sjálfir njótum góðs af, meðal annars sjúkrahúsin, sem svo margir Íslendingar verða að sœkja; og svo getum vér gjört það, sem brœðrnir á hinum fyrstu öldum gjörðu áðr en nokkrar líknarstofnanir komu upp.

Af andstœðingum kirkju vorrar er því stöðugt slegið framan í oss hér vestra, að vér séum ekkert betri í líferni voru en þeir, sem ekki standi í neinni kirkju. „Sýn mér trú þína af verkum þínum“ eru hin egnandi orð, sem þeir sífellt hrópa í eyru vor. Með öðrum orðum: þeir mana oss til að sanna, að vor trú sé betri en þeirra trúleysi. Þar sem svona stendr á, hlýtr hver hugsandi sannkristinn maðr í kirkjufélagi voru að sjá, hve nauðsynlegt það er að sýna, að hver einasti sannr lærisveinn Jesú Krists er merkisberi kærleikans. Eins og kristindómrinn

í fyrstu sannaði ágæti sitt af sínum lífernis-kærleika, eins hljótum vér að sanna hið ævaranda gildi hins sanna kristindóms á alveg sama hátt. Það er heimtað af oss að *sanna*, og vér megum til að *sanna*, eða að öðrum kosti munum vér koma „óorði á hið góða nafn, sem vér erum nefndir“ (Jak. 2, 7).

Það er ekki hœgt að segja, að vér kirkjufélagsmennirnir höfum ekki nóg af tœkifœrum, af alveg sama tagi og hinir fyrstu kristnu menn, til að láta kærleik vorn í ljósi í verkinu. „Fátœka hafið þér ætíð hjá yðr“, sagði Jesús. Hið sama má segja um hina sjúku og aumu og á ýmsan hátt líknarþurfandi á meðal vor bæði í borgunum og eins úti í sveitunum.

Hver einasti safnaðarmaðr á að skoða sjálfan sig eins og embættismann safnaðarins, er hefir þá skyldu á herðum, að líta eftir með þeim, í sínu nágrenni, er að einhverju leyti líða, heimsœkja þá, vaka yfir hinum sjúku, hugga hina hrelldu, aðstoða hina munaðarlausu, vernda þá, sem aðrir ásælast, verma hina köldu, metta hina hungruðu, klæða hina nöktu, já, og jafnvel vitja þeirra, sem í fangelsum sitja. Þegar safnaðarmaðrinn kemst að raun um, að hann einn er ekki fœr um að veita þá líkn í sínu nágrenni, sem við þarf, ætti hann að kveðja til liðs sér meðbrœðr sína, að svo miklu leyti, sem við þarf. Það kemr oft fyrir, að söfnuðrinn sjálfr ætti að taka samskot til að hjálpa fátœkum meðlim, sem líðr skort. Þessu verðum vér að sinna og þannig að sýna vorn kristindóm. Vér erum reyndar minntir á, að kristindómrinn eigi að vera í hjartanu, og aldrei getum vér lært þann sannleika of vel; en það lítr út fyrir, að sumir sé svo hræddir við að sýna sinn kristindóm, að þeir hafi hann stöðugt lokaðan inni í einhverjum afkima hjarta síns þangað til hann kafnar alveg. Það er auðvitað til aðferð að sýna svo kallaðan kristindóm á þann hátt, sem að eins verðskuldar hina dýpstu fyrirlitning; en það ætti ekki að skapa hræðslu hjá oss við að sýna ekta kristindóm á þann hátt, sem er eðlilegr og sjálfsagðr.

Í öllu þessu tilliti getum vér mikið lært af hinum innlendu brœðrum vorum. Þeir kunna svo vel að gjöra gott, margir hverjir. Hve ákaflega mikið er gjört af því að heimsækja hina þjáðu í spítölunum, skemmta þeim, lána þeim bœkr, senda þeim angandi blóm og gjöra annað samskonar til að kasta eins miklum ljósgeislum inn í þau kvalaheimkynni eins og mögulegt er.

Kennið hinum ungu vel að gjöra í þessu tilliti sem öðru. Í staðinn fyrir að gefa börnunum gjafir á jólunum veita sumir sunnudagsskólar þeim tœkifœri til að koma með gjafir handa fátœkum. „Sælla er að gefa en þiggja.“ Fagrt er að kenna og læra þetta.

Það er vert í þessu sambandi að minnast á starf sunnudagsskólakennaranna í „Fyrstu lútersku kirkju“ í Winnipeg við að hjálpa bjargþrota Íslendingum í bœnum vetrinn 1894—95. Nefnd þessi var starfandi frá því í Nóvember og þangað til í Júní. „Leitaði hún samskota meðal almennings og útbýtti síðan smámsaman gjöfum þeim, er inn komu, meðal þurfamanna.“ $149.50 voru þannig útlagðir úr nefndarsjóði fyrir utan gjafir ýmsra í mat og fötum. Um 120 manns munu hafa notið góðs af þessu starfi nefndarinnar (samanber „Sam.“ X, 4). Þetta ætti að vera hvetjanda dœmi fyrir söfnuði vora og starfsemi víðsvegar.

Það er enn annað, sem kirkjufélag vort getr haft í huga, og það er að reyna að nota starf kvendjáknanna, sem þjóðflokkr vor kann að eignast, í söfnuðum vorum í bœjunum. Slík starfsemi er nú að útbreiðast í lúterskum söfnuðum í öðrum kirkjufélögum.

Vanrœkjum ekki líknarskylduna. Nóg er verkefnið. Nóg eru tœkifœrin. Nógir eru hinir hjálparþurfandi. Guð sé lofaðr fyrir aumingjana, sem vér megum liðsinna, og guð veiti oss krafta til að vera, þegar á þarf að halda, huggandi í orði og líknandi í verki!

---

## Ferð til Nýja Íslands.

Eftir ritstjóra „Sam.“

---

Á kirkjuþinginu í sumar var mér falið á hendr að fara missíónar-ferð til Nýja Íslands. Og lagði eg í því skyni á stað héðan frá Winnipeg laugardaginn 20. Ágúst norðr til Selkirk. Séra N. Steingrímr Þorláksson hafði þegar í sumar, er hann var hér á kirkjuþinginu, gjört ráð fyrir að bregða sér líka norðr til Selkirk og verða mér samferða þangað, þegar eg fœri, og það gjörði hann nú, mér til mikillar ánœgju. Næsta sunnudag pré-

dikuðum við þá báðir þar í bœnum, í kirkju hins lúterska safnaðar Íslendinga þar, eg að morgni, en hann að kvöldi. Og báðir tókum við þátt í kennslunni á sunnudagsskóla þess safnaðar, sem rétt um sama leyti hafði fengið nýjan forstöðumann, hr. Grím Eymann, er á síðastliðnu vori kom til Selkirk úr Íslendingabyggðinni í Argyle og settist þar að. Sunnudagsskóli þessi er furðanlega stór í svo fámennum söfnuði, og verðr væntanlega það verk, sem þar er unnið, söfnuðinum til mikillar eflingar. Meðal Selkirk-búa er augsýnilega talsvert mannval til kirkjulegrar vinnu, enda býsna mikill áhugi hjá þeim, er helzt gangast fyrir safnaðarmálum, á kristilegum framförum. Kirkjan íslenzka þar er rúmlegt og notalegt hús, og getr, þegar hún er fullsmíðuð, orðið öllum kirkjunum í þeim bœ fremri og veglegri. Hún er og alveg skuldlaus. — Á þriðjudagsnóttina lagði gufubátrinn „Premier“ á stað frá Selkirk langt norðr á Winnipegvatn, og tókum við séra Steingrímr okkr með honum far til Mikleyjar. Lentum við þar nyrzt á eynni um hádegi á þriðjudaginn. Upphaflega ætlaði séra Steingrímr ekki lengra norðr en til Selkirk; en af því svo góð ferð féll og tœkifœri var fyrir hann til að komast með bátnum þrem dögum síðar tilbaka, og af því að hann var ákveðinn í að prédika í Selkirk á næstu helgi og halda ekki þaðan heimleiðis fyrr en eftir þann sunnudag, réðst hann með mér norðr til eyjarinnar að gamni sínu, til þess að sjá það pláss og kynnast fólki þar ofr-lítið. Hann hefir aldrei áðr séð neitt af Nýja Íslandi. En það, sem hann nú sá af því héraði, þótti honum fagrt og skemmtilegt. Það er líka segin saga, að norðaustr-jaðarinn á Mikley hefir verulega náttúrufegrð til að bera. Og að heimsœkja Mikleyinga var í alla staði ánœgjulegt. Á fimmtudaginn 25. Ágúst var haldin guðsþjónusta í kirkjunni, sem stendr í Mylnuvíkinni svo kölluðu; og er byggðin á svæði þar út frá til norðrs og suðrs svo þétt, að hún utan af vatninu lítr nálega út eins og þorp. Kirkjan er allsnotrt hús, þótt ekki sé hún stór, byggð úr sandsteypu. Um tíma fyrir nokkrum árum tóku menn í Nýja Íslandi að byggja hús af því efni, einkum á Gimli. En nú hafa menn hætt við þá húsagjörð, því hún hefir ekki vel gefizt. Uppi yfir dyrum kirkjunnar í Mikley standa letruð þessi orð ritningarinnar: „Blessaðr sé sá, sem kemr í nafni drottins!“ Og í ávarpi, sem sér Stein-

grímr flutti í kirkjunni eftir að eg hafði lokið prédikan minni við hina áminnztu guðsþjónustu, lagði hann mönnum meðal annars þau orð á hjarta. Organ var flutt í kirkjuna og á það leikið samfara söngnum við þetta tœkifœri. Guðsþjónustan var vel viðunanlega sótt. Seinna um kvöldið skírði eg tvö börn í húsi einu spölkorn fyrir norðan kirkjuna. Þar skildum við séra Steingrímr. Hann fór norðr á eyjarenda til að vera þar til taks, er gufubátrinn um nóttina kœmi að norðan. Og komst hann næsta dag með bátnum til Selkirk, flutti þar fyrirlestr sama kvöldið í kirkjunni og prédikaði sunnudaginn næsta bæði að morgni og kvöldi. Á leiðinni suðr heim til sín eftir helgina prédikaði séra Steingrímr í íslenzku kirkjunni í Pembina — á þriðjudagskvöldið.

Sama dag, sem gufubátrinn fór með séra Steingrím til Selkirk, lagði eg líka á stað til ferðar burt úr eynni til lands, og var ferðinni heitið upp í Íslendingafljót. Hr. Einar Þorkelsson veitti mér far á góðum seglbáti. En er vér vorum komnir norðr og og vestr fyrir eyjarendann, kom logn, og biðum vér leiðis allan síðara hluta dagsins og nóttina næstu í húsi einu á vestrströnd eyjarinnar norðarlega. Sjóferðin gekk vel eftir það. Ekki komst eg þó upp til Lunds við Íslendingafljót fyrr en að áliðnum degi á laugardag. Hafði eg helzt hugsað mér að prédika ekki þar við Fljótið næsta sunnudag, heldr á einhverjum öðrum stað þar í grenndinni, annaðhvort suðr í Breiðuvík, eða uppi í Efribyggð — lengra upp með Fljótinu, eða norðr á Ísafold — nýbyggðinni norðr frá Fljótsósnum. En af því svo mjög var liðið á laugardaginn, er eg komst í land, sá eg, að tíminn myndi of naumr til að senda messuboð til þessara staða. Svo eg afréð, að halda kyrru fyrir við Fljótið neðra — í Brœðrasöfnuði — fram yfir helgina. Bjóst eg þá við að hlýða messu hjá séra Oddi V. Gíslasyni þennan sunnudag, 28. Ágúst, þar í skólahúsinu í Lundi. Því eg vissi, að hann ætlaði að prédika þar þá. Hann var ekki heima, er eg kom, og kom hann ekki heim fyrr en seint um kvöldið. En er eg hitti hann á sunnudagsmorguninn, bað hann mig að prédika í sinn stað, og það gjörði eg. Að guðsþjónustu aflokinni gjörði eg mönnum með nokkrum orðum grein fyrir þessari ferð minni, og tók eg fram, bæði þar og annarsstaðar í Nýja Íslandi, þar sem eg prédikaði, að eg væri ekki

kominn til þess að eiga neitt við kirkjumál byggðarlags þessa hið ytra, heldr eingöngu til þess að heilsa upp á menn í Jesú nafni og eftir- mætti að hvetja menn til að glœða hjá sér ljós kristinnar trúar í hjörtunum og húsunum. — Næsta dag, mánudag, fór eg fótgangandi norðr í Ísafoldarbyggð, og fór hr. Bjarni Marteinsson, sem stýrir sunnudagsskóla Brœðrasafnaðar og er einn af safnaðarfulltrúunum þar, með mér norðr þangað. Messuboð voru send daginn áðr, en þau komust ekki í nærri því öll húsin. Guðsþjónustan í Ísafoldar skólahúsi þennan dag varð því fremr fámenn. Eitt barn skírði eg þar. — Á þriðjudag fór eg ríðandi suðr í skólahús Breiðvíkinga, sem nefnist Baldr, og prédikaði þar. Við þá guðsþjónustu voru 3 til altaris. — Á miðvikudag prédikaði eg í Geysis skólahúsi í Efri-byggð. Þar telr kirkjufélagið einn söfnuð sér tilheyranda — Fljótshlíðarsöfnuð; en hann hefir að undanförnu nálega legið í dái. En það heyrði eg á mönnum þar, að fegnir vildu þeir, að eitthvað væri þar gjört til þess að glœða kirkjulegan félagsanda. Og góða von hefi eg um, að sunnudagsskóli komist þar á hið fyrsta. Skólakennarinn þar, hr. J. Magnús Bjarnason, er slíkri starfsemi mjög hlynntr. Sama löngun er lifandi hjá ýmsum góðum mönnum í Breiðuvíkr byggðinni. Frá Geysi fór eg niðr með Fljótinu, og hefir mér aldrei áðr þótt plássið þar eins fagrt. Á fimmtudaginn ók hr. Gunnsteinn Eyjólfsson með mig suðr að Hnausum í Breiðuvík. En þaðan hélt eg degi síðar ásamt Bjarna Marteinssyni suðr í Árnesbyggð. Á þessu svæði er smásöfnuðr einn kirkjufélaginu tilheyrandi—Árnessöfnuðr. Flutti eg þar þann dag tvær guðsþjónustur, sína í hvoru skólahúsi þeirrar byggðar, og skírði börn á báðum stöðunum. Héldum við svo á laugardaginn áfram reiðinni suðr frá Dagverðarnesi að Gimli. Þar prédikaði eg á sunnudaginn 4. Sept. í kirkjunni. Og var býsna fjölmennt við þá guðsþjónustu. Tvö börn skírði eg þar. Að guðsþjónustu lokinni skildi Bjarni Marteinsson við mig og hélt norðr heim til sín. Kirkjan á Gimli er eina kirkjan á meginlandi Nýja Íslands, úr sama efni gjör og Mikleyjarkirkja, og ekki óálitlegt hús tilsýndar; en innan í hana hefir aldrei verið smíðað neitt. Því áðr en farið væri við það verk að eiga leystist söfnuðrinn, sem komið hafði húsi þessu upp, í sundr. Trúarfráhvarf séra Magnúsar Skaftasens leiddi til þeirrar eyðingar.

Kirkjan komst í niðrlæging, þar sem enginn var nú í rauninni orðinn eigandi hennar. Mér var sagt, að þetta væri í fyrsta sinni, sem í henni hefði verið prédikað síðan séra Björn B. Jónsson hafði þar með mönnum guðsþjónustusamkomu árið 1893. Nú hefir skólanefndin þar á staðnum með hjálp almennings skólahéraðsins náð eignarhaldi á húsinu, hvort sem það nokkurn tíma verðr notað til skólahalds eða ekki. Ekki hefir neinn nýr söfnuðr enn verið myndaðr á Gimli. En vísir til safnaðar er þar þó og hefir lengi lifað þar, þó að lítt hafi verið kunnugt út í frá. Húsfrú Þorbjörg Pálsson, kona hr. Kristjáns P. Pálssonar, hefir með aðstoð nokkurra annarra samhentra kvenna svo árum skiftir haldið þar uppi sunnudagsskóla, og sagði hún mér, að tala innritaðra barna væri þar nú um 70. Er sú starfsemi stórrar þakkar verð og hlýtr að leiða til þess, að reglulegr söfnuðr rísi þar upp nálega eins og af sjálfu sér undir eins og pláss þetta hefir fengið stöðuga prestsþjónustu. — Gimli er nú orðinn talsvert þorp, sem stórum hefir prýkkað síðan bœjarstœðið hefir verið rutt og hreinsað og er orðið að þurrlendi.

Á mánudaginn 5. Sept. fór eg akandi suðr í syðra hluta Víðinesbyggðar, og prédikaði í Kjarna skólahúsi á suðrbakka Víðiár. En fólk var fremr fátt. Eftir guðsþjónustu skírði eg barn í íbúðarhúsi því, er skólinn er heitinn eftir. Og með því var missíónar-starfi mínu í Nýja Íslandi eiginlega lokið. Í þessum parti byggðarinnar er svo kallaðr Víðinessöfnuðr, sem kirkjufélagið telr sér tilheyranda. En þar hefir verið mjög lítið um kirkjulega starfsemi nú á seinni árum. Þó hefir stundum verið átt þar við sunnudagsskólahald.

Þegar eg næst á undan þessu kom til Nýja Íslands, árið 1891, var talsvert öðruvísi þar umhorfs en nú. Eigi löngu þar á undan hafði voðaleg skógarbrenna gengið þar yfir nýlendusvæðið, stóra fláka af öllum byggðapörtunum á meginlandi. Og þegar eg um árið var þar á ferð, voru þessi brunnu svæði enn nálega kolsvört og með öllum merkjum eyðileggingarinnar, í fyllsta máta œgileg og dauðaleg að útliti. Nú þar á móti eru þeir flákar allir að sumarlagi orðnir grœnir og lifandi, alsettir þéttum, lífkröftugum undirskógi, — nema þar sem mannshöndin hefir komið til og myndað úr eyðunum gömlu akrbletti eða grasi vaxna bala. En sortinn og bruninn og dauðinn er allr

horfinn. Og ef mér hefir skilizt rétt, þá hefir samskonar breyting á þessum sama tíma orðið í Nýja Íslandi í andlegu tilliti. Héraðið var að miklu leyti eins og svart, sorglegt flag fyrst eftir að sá andlegi eyðileggingareldr, sem fyrir alkunnugt atvik kviknaði þar, hafði brennt hinn kirkjulega gróðr upp á stórum svæðum. Og sá eldr sást lengi lifa þar í kolunum. En nú er ekki að eins allr slíkr eldr slokknaðr, heldr og óðum að koma upp nýgræðingr á því gamla brunasvæði. Og mér skilst, að sá gróðr hafi myndazt eða sé að myndast nálega af sjálfu sér. Drottinn hefir mátt til að græða upp flagið. Það er eins vís framtíðarvon fyrir kirkju vora og kristindóm í Nýja Íslandi eins og í hverju öðru íslenzku byggðarlagi.

Eg beið eftir bátsferð til Selkirk á Gimli frá þriðjudegi til laugardags 9. þ. mán. Þau hjónin hr. Kristján Pálsson og kona hans hýstu mig og gjörðu mér allt gott. Við Íslendingafljót dvaldi eg lengst hjá hr. Jóhanni Briem og í Mikley hjá hr. Helga Tómassyni, í bezta yfirlæti — eins og reyndar alls staðar, þar sem eg kom.

Í Selkirk prédikaði eg að morgni sunnudagsins 11. þ. m. í heimleiðinni, en samdægrs lauk eg ferðinni. Og sama kvöld sem eg kom heim, prédikaði séra Oddr V. Gíslason fyrir mig hér í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg.

---

—Um missíónar-ferðir, sem séra Björn B. Jónsson hefir farið til Watertown, Duluth og Minneapolis, ritar hann þetta:

Seint í Ágústm. skrapp eg til Watertown, S.-Dak. Þar búa fimm íslenzkar fjölskyldur og nokkrir lausamenn. Guðsþjónustu flutti eg þar í húsi hr. Kristjáns Jónssonar, og voru rétt allir Íslendingar þar saman komnir. Létu þeir í ljósi ánægju sína yfir komu minni og borguðu ferðakostnað minn.

Hinn 5. Sept. lagði eg upp í missíónarferð til Minneapolis og Duluth. Var eg ellefu daga í þeirri ferð. Fjóra daga var eg um kyrrt í Duluth. Þar eru á annað hundrað Íslendingar búsettir. Guðsþjónustu hélt eg með fólki þessu í lúterskri kirkju, er norskr söfnuðr lánaði til þess. Aðra samkomu hélt eg með löndum mínum í Duluth í húsi hr. Guðm. Guðmundssonar. Í Duluth skírði eg tvö börn.

Á heimleið frá Duluth flutti eg guðsþjónustu í Minneapolis, og voru flestir Íslendingar, er í bænum búa, þar saman komnir. Að eins fáar íslenzkar fjölskyldur eru í Minneapolis og nokkuð af einhleypu fólki. Er það dreift mjög um borgina og því örðugt að safna því saman. Eitt barn skírði eg í Minueapolis.

—Séra Friðrik J. Bergmann fór snemma í Ágúst í missíónar-erindum til íslenzku nýlendunnar við Roseau í Minnesota-ríki norðvestanverðu, sem hr. Runólfr Marteinsson heimsótti rétt á undan kirkjuþingi í sumar.—Séra Friðrik fór keyrandi heiman frá sér alla leið, nál. 130 mílur. Heimsótti hann margt af fólkinu í byggðinni og prédikaði þar í húsi Þjóðverja eins sunnudaginn 7. Ágúst. Dálítinn sunnudagsskóla höfðu Íslendingar þar nýlega byrjað þá.—Nákvæmari skýrslu frá séra Friðrik um þessa ferð hans getum vér væntanlega birt síðar.

---

Vér höfum nokkrum sinnum bent lesendum „Sameiningarinnar" á heimilisblaðið *The Illustrated Home Journal*, sem út er gefið af *Louis Lange Publishing Co.* í St. Louis, Mo. Það er einkar vandað og fróðlegt tímarit, sem ætti að vera í höndum sem flestra Íslendinga, er lesið geta enska tungu. Nú er nýútkomið af tímariti þessu sérstakt hefti, hátíðarnúmer fyrir hina komandi reformazíónarhátíð 31. Október. Það er mjög prýðilegt skrautverk, fullt af vönduðum og skemmtilegum ritgjörðum eftir ýmsa höfunda um Lúter og siðabótina lútersku, og ritgjörðunum til skýringar margar ljómandi myndir. Þar er meðal annars hin fræga mynd af Lúter eftir Lucas Cranach, mynd af húsi því, er Lúter var fœddr í, mynd af gröf hans í kirkjunni í Wittenberg, stór mynd af minnisvarða hans í Erfurt, önnur stór af hjónavígslu hans, og þriðja stór af heimilislífi hans, mynd af Wittenberg, Wartburg o. s. frv. —Eitt eintak af þessu íþróttaverki kostar að eins 10 cts. En ef nokkuð mikið er af því keypt, fæst mikill afsláttr: 12 expl. á 75 cts, 25 á $1.50 o. s. frv.—Sunnudagsskólar vorir ætti að fá sér rit þetta fyrir reformazíónardaginn til þess að gjöra börnunum þýðing hans minnisstœða.

---

Hr. *Jón A. Blöndal,* 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam."

---

Hr. *Björn T. Björnsson,* 309½ Elgin Ave., sendir „Sam." út.

---

„KENNARINN", mánaðarrit til notkunar við kristindómsfrœðslu barna í sunnudagsskólum og heimahúsum; kemr út í Minneota, Minn. Árgangrinn, 12 nr., kostar að eins 50 cts. Ritstjóri séra Björn B. Jónsson. Útg. S. Th. Westdal.

---

„ÍSAFOLD", lang-stœrsta blaðið á Íslandi, kemr út tvisvar í viku allt árið, kostar í Ameríku $1.50. Halldór S. Bardal, 181 King St., Winnipeg, er útsölumaðr.

---

„VERÐI LJÓS!"— hið kirkjulega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar og Sigurðar P. Sívertsens í Reykjavík — til sölu í bókaverzlan Halldórs S. Bardals í Winnipeg og kostar 60 cts.

---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.